fúsſon refererar ſig til ſins Paaſtands í þeim fyrir Yfir-rettinn framlagdu ínnleggjum. Vídara framkom ecki í ſókn edur vørn málſins, var þad því til endilegs dóms upptekid, er ſvolátandi var aſſagdur:

Vice-Løgmanns M. Olafsſonar dómur, grundadur á mørgum órækum vitnum, er med eidi ſannad hafa, ad ſá gamli gardur, ſem legid hefir millum Arnarhóls og Studlakots, hafi verid landamerki millum nefndra býla, ſkal ſtanda vid fulla makt, og þad umþrætta ſtycki hér eptir æfinlega tilheyra Studlakoti. Af Oecónómó G. Vigfúsſyni, ſem vegna Arnarhóls adkomſtar á þrætu-plátſinu, hefir leidt nockur, en þó ecki eins antakanleg vitni, þar þau grunda ſig á Giſſurar Jónsſonar eins ſøguſøgn, er bjó fyrrum á Arnarhóli, kann ei ad dæmaſt nockrar Omkoſtninger í þeſſari ſøk, og þad því ſídur, ſem hann í nockur ár, ádur enn Próceſs byrjadiſt í því, hefir óátalid látid yrkja og dýrka þrætu-ſtyckid, eru þær því, og

allur

allur Próceſs koſtnadur á allar ſídur uppḣafinn. *Actum ut ſupra.*

L. A. Thódal.

O. Stepḣánsſon. L. Gudmundsſon.
J. Arnórsſon. J. Jónsſon.
P. Axelsſon. G. Kétilsſon.

Annó 1782 þann 26ta Júlí, var Yfir-rétturinn ſettur undir Præſidió Stiptamtmanns L. A. Thódals, med undirſkrifudum Asſesſórum.

## Num. I.

Mætti fyrir Yfir-rettinum Vice-Løgmadur M. Olafsſon, og framlagdi Stiptamtmanns Thódals innkøllun, áſamt Sýſlumanni S. Finnsſyni ad mæta- í Delinqvent Helga Gudmundsſonar Þiófnadar máli; Delinqventinn er og ſvo til ſtadar fyrir rettinum; þetta Varſel uppleſid og áteiknad lit. A. Sýſlumadur V. Thórarinsſon framlagdi Stiptamtmannſins Ordre til ſín, ad mæta fyrir Delinqventinn, uppleſin og merkud lit. B. Því næſt

 fram-

framlagdi Vice-Lögmadurinn Hjerads og Extra-Lög-þíngis Acta í málinu, í hvørs slúttníngu Delinqventinn fyrir í annad sinn begenginn þjófnad, í tilliti til hans veikleika, er dæmdur í Tukthúsid uppá lífs-tíd, Procesſinn upplesinn og áteiknadur lit. C. Uppá Sýslumanns S. Finnssonar vegna framlagdi Vice-Lögmadurinn innlegg, hvar inni hann uppástendur, ad Delinqventinn verdi dæmdur í Tukthúsid til erfidis og forvaríngar, upplesid og markad lit D. Annad innlegg prodúceradi Vice-Lögmadurinn undir sinu nafni, hvarí hann anfærir þær ástædur, hvar á hann hafi grundad sinn affagda Extra-Lögþíngis dóm í fyrstu instanzi, sem hann uppástendur verdi confirmeradur, upplesid og áteiknad lit. E. Sýslumadur V. Thórarinsson framlagdi og svo innlegg, hvar inni hann forestiller og uppástendur, ad Delinqventinn, sem sé limafallssjúkur, kunni ecki ad dæmast til Tukthúss erfidis, heldur egi hann ad undirhaldast af sveitinni, sem vanfær ómagi, m. v., sem innleggid med sér ber, upplesid og markad lit. F. Delinqventinn fyrir rettinum examíneradur, tilstendur og játar sinn tvísvarsinnum framinn þjófnad, og allar þar ad lútandi kríngumstædur, eins og hann ádur fyrir Hjerads- og Extra-Lögþíngis-retti medkennt hefir. Vídara framkom ecki eda var uppástadid af vidkomendum þessa máls, hvarí fjell svolátandi Alyktan:

Yfir-

Yfir-rètturinn álítur þessa sök, hvar um engin udförlig lög eru í landinu, af þeirri náttúru og svo stóru verdi, ad hún þurfi ad foreſtillaſt Hans Kongel. Majeſtæt med allerunderdanigſte Foreſpörgſel: hvörninn med Delinqventinn Helga Gudmundsſon og fleiri hans líka í vidlíkum tilfellum egi ad höndla? hvada ſtraff ſè hellſt paſſandi til þeirra misgjörnínga? ſamt hvar og hvörninn undirhaldaſt? í millitíd, og allt svo lengi kóngleg Resólútíón ecki innkëmur hèr um í landid, ſkal Helgi Gudmundsſon undirhaldaſt af því islendſka Tukthúſi. *Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| D. Stephánsſon. | B. Schéving. |
| J. Arnórsſon. | G. Kétilsſon. |
| M. Gíſlaſon. | S. Sigurdsſon. |

## Num. II.

Sama eptirmiddag mætti fyrir Yfir-rettinum Sýslumadur í Rángárvalla-sýslu J. Jónsſon, ſem beſtickadur Prócúrator, vegna Bjargar Hoſkuldsdóttur, og framlagdi Yfir-rettar ſteſnu, hvar med til Underkjendelſe innſtefniſt einn af Lögmanni B. Mark-

Markúsſyni, þann 17da Júlí 1781, afſagdur Løgþingis dómur í barnsfadernis-lýſingar ſøk millú Bjargar og Helga Þorkellsſonar, ſem og er ſtefndur ad heyra þær likur og beviſingar, ſem hún vill framfæra ſinni lýſingu til ſtyrkingar, med vídara, er ſtefnan med ſer ber, uppleſin og merkud lit. A. Þar næſt framlagdi Sýſlumadur J. Jónsſon Hjerads og Løgþingis Próceſsa og dóma í málinu, med þeim fyrra er Bjørgu dæmdur fyllingar eidur, en ſá ſidari tillætur Helga fríunar eid, Acten uppleſinn og áteiknadur lit. B. Prócúceradi ſvo Sýſlumadurinn innlegg undir nafni Sýſlumanns S. Finnsſonar, ſem Hjerads dómara, hvarinni hann leidir røkſemdir til ſíns dóms, og uppáſtendur hann verdi confirmeradur, uppleſid og markad litera C. Helgi mætir í egin perſónu, og med innleggi uppáſtendur ad Løgþingis dómurinn verdi ſtadfeſtur og ſer tildæmdur málskoſtnadur af Sýſlumanni S. Finnsſyni, innleggid uppleſid og áteiknad lit. D. Helgi af rettinum examíneradur, þverneitar Bjargar barnsfadernis lýſingu, og uppáſtendur ſer dæmiſt fríunar eidur, hvarámóti Sýſlumadur J. Jónsſon próteſterar. Og med því Bjørg er ecki til ſtadar, hvad þó retturinn álítur naudſynlegt, ſvo er endilegur dómur í ſøkinni útſettur til mánudags, og Sýſlumanninum tilhaldid ad ſøje Anſtalt til hennar Indhentelſe

hentelse innann þess tíma; var svo frá rettinum gengid.

## Num. III.

Mánudaginn, þann 29da Júlí ad Ysir-rettinum settum og nálægum öllum ofannefndum málspörtum, mætti Björg fyrir rettinum, og þar náqvæmlega examinerud, svarar skírt og greinilega til allra spursmála, nefnilega eptirfylgjandi serdeilislega: 1.) Hvörn lýsir þú fødur ad barni því, sem þú í heiminn fæddir og þetta mál afrís? svar: Helga Þorkellsson, hvad hún tilbýdur sig med eidi ad sanna, sem og einninn ad hún se frí fyrir øllu holds samrædi med ødrum karlmønnum. 2.) Hvar og á hvørjum ársins tíma meinar þú þig hafa tekid vid barns-getnadi af Helga vøldum? svar: í kolskógi nælægt Gjábacka í 10du viku sumars, en barn segist hún fædt hafa þridja dag páska, eda nockru fyrir sumarmál. 3.) Leitadist Helgi vid med nockrum rádum eda atburdum, ad fá þig losada vid þad fóstur, sem þú med geckst, fyrir þess regluleiga fædíngar tíma? svar: hann gjørdi ser ferd til Gunnlaugs Þorkellssonar, sem fæst vid Læknisdóma, og vildi fá hann bædi til ad taka mer blód, og líka einninn ad láta mig brúka inntøku medøl, sem her til skyldu þjena; hann gjørdi og ferd á Eyrarbacka, hvar hann keypti 1 pott messuvíns, í hvørju eg átti ad inntaka einhvørja dropa af

Læknirsins hendi, hvad og einninn skedi í eitt skipti, en fyrir ómak Gunnlaugs gaf hann honum sjett-ann dal, eptir því, sem hann mer sagdi. 4.) Vissi Helgi ad þú varst med barns-þúnga ádur hann fór til sjóar um veturinn? og hvad taladi hann vid þig ádur enn hann for ad heiman þessari sök vidkom-andi? svar: hann beiddi mig ad kjenna einhverjum ødrum barnid, og lofadi, ef eg þad gjørdi, ad andir-halda mig og þad næsta ár eptir, hvar frá Sóknar-prestur minn Sjra Vigfús alvarlega rjedi mer, en áminnti mig þarámóti ad segja sannleikann. 5.) Hef-ir þú nockud þegid af Helga, eda tekid vid nockrum gjøfum af honum til sannindamerkis þinni søgusøgn? svar: 34 ß. eda 1 ríkisort og 10 ß., sem hann hafi bannad ser ad láta adra af vita, þar fyrir utan hafi hann fengid ser socka, vetlinga, knjáskjól, upphluts-efni af klædi, ströga og traf. 6.) Veitstu meira ad segja þessari sök til upplýsingar? svar: ecki þad hún muni, framar enn hvad í Hjerads Próessinn finnist innfært og nú her fyrir retti framfært hafi, fyrir ut-an hvad hann hafi sagt ser, ad hann hafi fengid af Prestinum Sjra Hilaríus Illhugasyni ad skrifa edur skrifa láta Gunnlaugi Þorkellssyni bref, í hvørju hann hafi begjert hann til sín, hvørs erindis veit hún ecki. Her eptir var Helgi Þorkellsson innkalladur fyrir rettinn, og neitar hann enn nú sem fyrri, ad hann se fadir ad því barni, sem Bjørg í heiminn

heiminn fædt hefir, fyrir hvørt hann segist vilja eid giöra. Til 2ars spurnmáls svarar hann: ad vel hafi Bjørg farid med ser í Gjábacka skóg, en med engu móti geti hann munad á hvørjum tíma sumarsins þad hafi verid, en hitt se víst, ad eckert holdlegt samrædi hafi hann þar haft med henni. Í Anledning af því 3ja spursmáli til Bjargar, svarar hann: ad ecki hafi hann ætlad ad brúka þad vín, sem Bjørg segi sig keypt hafa á Eyrarbacka, handa henni, edur til sín, er hún lýst hafi her fyrir rettinum, heldur hafi annar madur bedid sig þad ad kaupa. Hann adspurdur: hvørr var sá? svar: eg man þad ecki. Aptur spurdur: hvad gjørdir þú þá af víninu? svarar: eg drack þad mestpart sjálfur. Vídara ad nýju spurdur sömu spursmálum, svarar: eg ætladi aldrei ad kaupa vín, heldur brennuvín; vínsins var aldrei til mín vitjad; hvørr kunni ad segja ad eg á Eyrarbacka hefdi keypt vín? 4) Nær vissir þú ad Bjørg var med barns þúnga? ecki fyrri enn eg kom frá sjó. 5.) Hafdi ecki kona þín þig grunsamann um samfarir vid Bjørgu? neitar fyrst, en segist sídan hafa formerkt þad, og svarad illu um. Aminntur af rettinum ad segja satt, játar hann sig hafa meint Bjørgu med barni ádur til sjóar fór, og enn aptur ad blód stædt med henni. 6.) Hvad mikid gafstú Bjørgu í hennar laun? svarar fyrst: eckert, utan socka, vetlínga og hnjáskjól, en eptir gjørda konfrontatión med Bjørgu,

 tilstód

tilstód um sídir, hún hefdi fengid hjá ser striga í skirtu, lerepts-trafs og klædi í upphlut, en mergneitadi ad hún nockra penínga hefdi hjá ser fengid, tilstód þad þó einusinni indirecte. Bjargar andsvari uppá þad 6ta spursmál, og framburdi ad hann hafi bedid Prestinn Síra Hilaríus ad skrifa eptir Gunnlaugi Þórkellssyni og óskad hans til Bjargar; þverneitar hann einninn, en begjerir ad retturinn vilji tildæma ser sinnar eid fyrir Bjargar barns-fadernis lýsíngu, hún bidur og, ad hún fái ad gjöra sönnunar eid, og áminnir Helga fyrir rettinum ad varast mein-eid, samt ad láta þessa sök svo varna sem hún nú se, koma fyrir Guds allsherjar eda sídasta dóm, med mörgum vidqvæmum og hrærandi ordum, segjandi hönum til kynna, ad sig ángri mest af öllu sú ólucka, sem hann, med falskri eids áleggíngu vilji yfir sjálfann sig leida. Lögmadurinn B. Markússon ljet framleggja innlegg fyrir Yfirrettinn, í hverju hann begjerir ad sinn genginn Lögþíngis dómur í þessu máli verdi stadfestur, upplesid og markad lit. E. Hjerámóti próteſterar Sýslumadur J. Jónsson med innleggi, sem upplesid áteiknast lit. F., en uppástendur ad Björgu verdi tildæmdur sönnunar eidur. Fleira sögdust ei Partarnir í sókn eda vörn málsins hafa ad framfæra, var því sökin tekin undir Yfir-rettarins nákvæma yfirvegun, og þar um gjörd eptirfylgjandi Alyktun:

Adur

Ádur enn þetta mál kann að takast undir endilegann dóm, vill Yfir-rétturinn hér með hafa uppálagt Sýslumanninum S. Finnssyni: 1.) Grandgæfilega að láta vitnin Þórð Jónsson og Melkior Jónsson, samt fleiri er vitna kynnu um kjærleiksfulla umgengni Helga Þorkéllssonar með Björgu Höskuldsdóttur, forklára sitt vitni, hvari þessi þeirra kjærleiks umgengni, sem ekta-persóna, hafi verið innifalin. 2.) Innhenta Prestsins Síra Vigfúsa Jónssonar eidfest attest og Forklaring, um það lykti, er hann heyrt kann hafa liggja á Helga og Björgu, og hvar fyrir Presturinn gjørdi sér ferð til hennar fyrir barns-fædínguna, og áminnti að útleggja þann rétta barnsfødur. 3) Einninn eidfest attest Síra Hilaríusar Illhugasonar um það, hvørt hann skrifaði eða skrifa lét vegna Helga bréf til Gunnlaugs Þorkéllssonar, og beiddi hann í því að koma til sín eður Bjargar, og hvørs erindis? alla þessa upplýsingu, og hvørja aðra er fást kann, þessu vafasama máli til upplýsingar, hefir Sýslumaðurinn S. Finnsson að fram-

 leggja

leggja fyrir Yfir-réttinn nærstkomandi ár, þá øllum málspørtunum er tilsagt hér ad mæta, og heyra endilegann Yfir-réttarins dóm í søkinni. *Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

O. Stephánsson. B. Schéving.
J. Arnórsson. G. Kétilsson.
M. Gíslason. S. Sigurdsson.

## Num. IV.

Þann 30ta Júlí mætti fyrir Yfir-rettinum Sýslumadur J. Jónsson, sem beordret Prócúrator uppá Assistent Sigurdar Isfelds vegna, og framlagdi Yfir-rettar stefnu yfir Vice-Løgmanns S. Thórarinssonar, þann 13da Júlí 1781, afsagda Løgþingis dómi, hvar med Isfeld er dæmdur ad hafa tapad einni Tuk milli hans og Gríms Gudmundssonar, þángad til hann stefnir løglega ad nýju; stefnan upplesin og mørkud lit. A. Því nærst framlagdi Sýslumadurinn Løgþingis Prócess og dóm í søkinni, uppleśinn og áteiknadur lit. B. Vidara framlagdi Sýslumadurinn innlegg, hvar med hann ákjærir Vice-Løgmannsins ádurnefnda dóm, og uppástendur ad Isfeld verdi fríkenndur fyrir þeim ídæmdu bótum, m. v., er innleggid med ser ber, uppleśid og markad

markad lit. C. Vice-Løgmadurinn pródúceradi ogsvo innlegg, hvarí hann framfærir þær røksemdir er hann hafi grundad sinn dóm á, samt hvørninu Reskriptid af 12ta April 1751 egi og megi skiljast, med vídari Demonstratión og uppástandi, er innleggid medfærir, uppleſid og áteiknad lit. D. Framar uppástód Vice-Løgmadurinn munnlega: ad skyldi þad verda tekid í Betænkning ad confirmera sinn dóm, í tilliti til þeirra Isfeld á hendur sögdu bóta og málskostnadar, svo mætti Isfeld edur hans fullmektugum verda tilhaldid ad bevísa forføll ad geta mætt fyrir Løgþingis-réttinum nærstlidid ár, eptir N°. 1-10-1. Partarnir refererudu sig til sinna innleggja og Paaſtands, og sögduſt ei hafa vídara ad framfæra; var því søkin til endilegs dóms upptekin og svolátandi afſagdur:

Undirassistent Sigurdur Isfeld, sem ecki lét mæta í Løgþingis-réttinum nærstlidid ár, í þeirri søk, er hann færdi mót Grími Gudmundssyni, fyrr'enn þann 18da Júlí, þá Løgþingid hafdi ſtadid í 8ta daga, skal vera frí fyrir bótum til Júſtits-kaſſans þá fyrſtu 3 daga Løgþingiſins, en fyrir hina 5 ſídari, skal hann betala 5 lód ſylfurs; hann er og fríteкinn fyrir málskostnadar ſvør-

um

un til Sýslumanns J. Jakobssonar og Gríms Gudmundssonar, þar hans talsmadur Sýslumadur J. Jónsson innfann sig á Løgþínginu, og kann því Isfeld ei ad álítast, sem øldúngis útiblífandi, hvad allt Yfir-rétturinn grundar á því kónglega Reskripti af 12ta Apr. 1751, sem í þessu tilfelli á ad fylgja. *Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | V. Schéving. |
| J. Arnórsson. | G. Kétilsson. |
| M. Gíslason. | S. Sigurdsson. |

## Num. V.

Sama dags eptirmiddág mætti fyrir Yfir-rettinum Nótaríus O. Stephánsson, sem eptir ad hafa uppá sín vegna, ad vera Nótaríus í hans forfalli í søkunum milli Kaupmanns Kyhns og Sýslumanns J. Helgasónar, útvegad Stiptamtmannsins Ordre til Sýslumanns V. Thórarinssonar, hvør fyrir rettinum upplesin áteiknast lit. A. Mætti svo Sýslumadur J. Helgason og framlagdi Yfir rettar stefnu af 9da Apr. þ. á., med hvørri hann stefnir Løgmanns V. Mark-

Markússonar dómi til Underkjendelse, samt Kaupmanni Kyhn til ad heyra þær bevísíngar, sem hann móti honum fyrir rettinum, í þessari svo kølludu Høndlúnar sök, vill framfæra; stefnan upplesin og áteiknud lit. B. Nótaríus O. Stephánsson framlagdi Contra-stefnu af 17da Apr. þ. á., hvari hann stefnir Sýslumanni J. Helgasyni til ad forsvara sínar sakargiptir í ádurnefndri stefnu, samt til ad þola dóm til ad betala þær her vid orsøkudu Omkostninger; Contra-stefnan upplesin og merkud lit. C. Svo vel Hjeráds sem Extra-Løgþíngis Prócessinn í þessari søk, var upplesinn og áteiknadur lit. D. Vidvíkiandi framlagdi Sýslumadur J. Helgason innlegg, hvari hann uppástendur, ad søkin verdi útsett til nærstkomandi árs Yfir-rettar, þar Sýslumadur J. Sveinsson hafi ei viljad afheyra þau vitni, sem ser hafi verid naudsynleg til sakarinnar upplýsíngar, hvar uppá hann framleggur attest frá Sýslumanni J. Sveinssyni, sem ásamt innlegginu var upplesid og markad lit. E. og F. Nótaríus uppástendur ad Sýslumanni J. Helgasyni tilllátist ecki ad færa nockur ný vitni, nema hann afleggi ádur sinn eid, ad hann ecki vissi af þessum bevísum fyrir undirrettinum, hvad þó Nótaríus uppástendur ecki kunni ad ske án Kóngs leyfis, eptir Forordning. af 1717 og 1719. Sýslumadur J. Helgason begjerdi her uppá Yfirrettarins Decision; sem þannig fiell:

Fyrir utan þad, ad þessi søk er meir enn 2ja ára gømul, á hvørjum svo yfrid laungum tíma Sýslumadur J. Helgason hefdi kunnad ad innstefna vitnum móti Kaupmanni Ryhn, hefdi hann álitid þad naudsynlegt; þá hefir hann fyrir rétti Sýslumanns Isfjords árid 1780 erklærad, ad hann hefdi eckert meira ad framfæra undir endilegann Hérads dóm enn þá var af honum uppástadid, hvar eptir Løgþíngis dómur er einnig í málinu affagdur, og søkin nú af Sýslumanni J. Helgasyni til endilegs Yfir-réttar dóms innstefnd, á móti hvørrar framgángi hann kann því sídur ad gjøra Excéptión, hann hefir og erklærad hér fyrir réttinum, ad engin ný vitni hafi ad færa, af hvørjum hann hafi ei ádur vitad; því á og skal nú søkin fyrirtakast.

Sýslumadur J. Helgason framlagdi innlegg ásamt því tilheyrandi 5 fylgiskjølum, sem er svar uppá Nótarii innlegg fyrir Extra-Løgþíngis-réttinn ad Eyrarbacka; inneggid med þess fylgiskjølum upplesid og áteiknad lit. G. Annad innlegg framlagdi Sýslumadur J. Helgason áhrærandi Løgmanns B. Markússonar Behandling í søkinni, hvari og hann uppá-

uppástendur, ad Lögmadurinn ansjáist eptir NL. 1-5-3. 9., samt ad Kaupmadur Kyhn verdi tilfundinn, eptir medfylgjandi reikníngi, ad betala ser Próceß Omkostninger; þetta uppleſid áteiknaſt lit. H. J. Nótarius framlagdi innlegg, í hvörju hann sýnir sakarinnar Sammenhæng, med videre Paaſtand, sem innleggid med ser færir, uppleſid og markad lit. K. Lögmadur B. Markússon uppástendur sinn dómur verdi konfirmeradur, og Sýslumadur J. Helgason ansjedur tilbærilega fyrir sitt grófa innlegg. Sýslumadur J. Helgason vidblífur sitt fyrir Hjeradsrettinum í sökinni gjørda Paaſtand, í tilliti til Kaupmanns Kyhn. Nótarius refererar sig til síns innleggs. Vidara sögduſt Partarnir ecki hafa ad framfæra, var svo frá rettinum gengid.

## NUM. VI.

Þann 31ta Júlí s. m., ad Yfirrettinum settum, var afsagdur svolátandi Dómur:

Þar Sýslumadur J. Helgaſon hefir ei kunnad ad yfirbevísa Kaupmanninum Andreas Kyhn falska vigt, edur nockurn annann brétt Sýslumanninum edur austur Skaptafells-sýslu innbyggendum gjørdann, í þeirri af Kaupmanninum færdu höndlun á Berufirdi, hvar fyrir hann hefir þó til þínga sókt Kaupmanninn, og innstefnt 10 vitnum fyrir rétt

 Sýslu-

Sýſlumanns Jsfjords á höndlunarſtadinn, er ſanna ſkyldu. Þeſſa af hönum, Kaupmann-inum og hans æru nærrigángandi, géfnu Be-ſkyldning, þar vitnin hafa annadhvort verid eigarar þeirrar voru, ullar og tólgar, ſem þeim þykir, ílla vegiſt hafa á Berukirdi, og álitaſt því ad hafa vitnad í ſinni egin ſök, ſamt ad hafa aflagt ſigtunar-eid mót Kaupmanni Ryhn, ſem hvorttveggja er lögum og rétti gagnſtædt, edur og vitnin hafa verid annara þénarar, um hvorra rélega medhöndlun á vörunum frá heimilum þeirra húſsbænda, til þeſs þær vóru afhendtar í höndluninni, enginn veit neitt ad ſegja, né heldur um vörunnar áſigkomulag, hvort ullin og tólgin var hrein og forſvaran-leg, edur ſendin og óhrein, í hvorju ſídara til-felli varan kunni ei móttakaſt utan afſlags edur undirvigtar; ſvo hafa og vitnin verid Teſtes ſingulares, og engin yfireinsſtemmandi um einnar og hinnar ſömu voru vigt edur á-ſigkomulag, yfir allt hafa þær af bændunum brúkudu reidſlur, hvorki verid júſteradar edur til höndlunarſtadarins færdar, til ſamanburdar vid Kaupmannſins brúkada júſterada vigt, á-litaſt því óeptirréttanlegar og aldúngis ógjör-legt eptir þeirra angéfnu, en þó undir eins óbevíſudu tilvíſan ad grunda nockurn dóm, eins höndlunar þjóns æru og gódu rykti til hneckirs; því dæmiſt rétt:

Sá

Sá af Lögmanninum B. Markússyni á Eyrarbacka affsagdi Extra-Logþíngis dómur, þañ 6ta Sept. 1781, skal standa vid fulla makt, sem hér med er af Yfir-réttinum stadfestur. I Próceß kostnad betali Sýslumadur J. Helgason til Kaupmanns A. Kyhn 10 rdli., sem ásamt þeim í Extra-Logþíngis dóminum uppádæmdu bótum og málskostnadi, skulu til hans luktar vera innañ nærstkomandi Michaelis messu, undir adför og Execútión.

*Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

O. Stephánsson. V. Schéving.
J. Arnórsson. G. Kétilsson.
M. Gíslason. S. Sigurdsson.

Sýslumadur J. Helgáson appellerar frá þessum dómi, en Nótaríus O. Stephánsson segist vilja hafa sér forbeholdet uppá síns Principals vegna ad declarera appell.

## Num. VII.

Sama dag mætti á ný fyrir Yfir-rettinum Sýslumadur J. Helgason, og framlagdi Yfir-rettar stefnu,

med hvørri. hann stefnir Logmanns B. Markús-son á r Extra-Logþíngis dóm, í þeirri svo kölludu Volds sök, gengnum á Eyrarbacka þann 7da Sept. 1781, til Underkjendelse; líka svo stefnist Kaupmadur Kyhn ásamt hans Prócúrator Nótaríus O. Stephánssyni, ad heyra þar beríśingar, sem hann framfærir sér til frínnar fyrir þeirri gefnu Volds Beskyldning, m. v., er stefnan inniheldur, upplesin og markud lit. A. Nótaríus framlagdi Contra-stefnu dat. 17da Apr. þ. á., sem upplesin átéiknast lit. B. Var svo upplesinn Hjerads og Extra-Logþíngis Próceſsinn í þessari sök og markadur lit. C. Sýslumadur J. Helgason framlagdi innlegg, hvarí hann begjerir Benægtelses Eid móti Kaupmanns Kyhns Volds Beskyldning, upplesid og áteiknad lit. D. Annad innlegg framlagdi Sýslumadurinn, í hvørju hann beidist ad Nótaríus verdi tilfundinn ad betala ser tilstrækkelig múlet og Satisfactión fyrir hans grófu Beskyldninger móti ser, í innleggi hans fyrir Extra-Logþíngis-rettinum í þessari sök; innleggid upplesid markast lit. E. Hjer til svaradi Nótaríus: ad hans innlegg matti confererast med vitnaleidslu Actinum. Hid þridja innlegg framlagdi Sýslumadur J. Helgason, hvarí hann demonstrerar Logmanns B. Markússonar ólöglegu Behandling á sökinni, med Paastandi, sem innleggid med ser ber, upplesid og áteiknad lit. F. Logmadur B. Markússon framlagdi innlegg, hvarí

hvark hann begjerir, ad sinn Extra-Logþíngis dómur verdi stadfestur, m. v., sem innleggid med sèr særir; upplesid og markad lit. G. Ad sídustu framlagdi Nótaríus innlegg, sem er Recit af hele Sagens Sammenhæng, med Paasiandi, sem inleggid med sèr ber, upplesid og áskrifad lit. H. Hier uppá qvadst Sýslumadur J. Helgason engu hafa ad svara vídara en hann allareidu hefdi gjört, og ecki heldur til sakarinnar, líka sem hinir Partarnir ecki sögdust meira hafa fram ad særa, var svo frá Rettinum gengid.

## Num. VIII.

Sama dags eptirmiddag ad Yfirrettinum aptur settum, var afsagdur svolátandi dómur í Volds-málinu millum Kaupmanns A. Kyhn og Sýslumanns J. Helgasonar:

Þad er med 4 samhljódandi eidsvornum vitnum, nefnil: Jens Grum, Niels Grum, Michael Hansen og Jens Nørregaard bevísad og gottgjört, ad Sýslumadur J. Helgason hafi ad qvöldi þess 18da Apr. 1780, ad fyrra bragdi, og án allra gèfinna orsaka af Kaupmanni A Kyhn, viljad hindra hann frá ad mega gánga út af húsi sínu, med því ad setja sig fyrir dyrnar, leggja hendur á hann, edur grípa í brjóstid, og hafi undireins brúkad þau hrædilegu ord vid Kaupmanninn: menn

menn kynnu ad stínga hnifi í þitt høfud; skommu sídar er med þessum vitnum og zur ødrum, Marie Jensdatter, Eyólfi Sigurds-syni og Katrínu Þorsteinsdóttir gottajørt, ad sama qvøld, þá Kaupmadur og Sýslu-madur hafi einsamlir inni verid í stofu Kaup-mannsins, hafi hljód heyrst, sem hafi gefid vitnunum orsøk ad hlaupa til stofunnar, hafi þá Sýslumadur J. Helgason fundist ofaná Kaupmanni Ryhn med knéd fyrir brjósti hans edur qvidi, er legid hafi folur sem nær uppilopt á gólfinu, med útstrakta fætur og handleggi, frá hverjum Sýslumadur J. Helgason hafi med makt mátt nauduaur dragast, en Kaupmadur, sem velltist um gólfid hálfdaudur, hljódandi og sem rasandi, berast í sæng sína, hvar hann, eptir misþyrmíngar Sýslumannsins, hafi sýtt miklu blódi, en nockur vltni, svo sem Michael Hansen og Eyólfur Sigurdsson segjast hafa verid hrædd um, sá fyrri, ad Kaupmadurinn væri þegar daudur, hinn sídari, ad þenkt hafi hann mundi nærri daudur vera; þad er og bevísad, ad Kaupmannsins vesti, hafi eptir endilaungu verid sundurrifid, hvorr Sýslumannsins óheyrilegur umgángur móti Kaupmanninum, sem ecki fiust í hinu allraminnsta ad hafa módgad Sýslumanninn, heldur umgengist hann hoislega og med mikilli moderatíón, enn og svo eptir Sýslumannsins fyrsta Angreb og óforskommudu ord til Kaupmannsins tølud í hans kamers-vyrum,

ei Þok straffsverdari, sem Sýslumadurinn átti, eptir sinni embættis skyldu, ad fyrirbyggja allt Kaupmanninum í uppákomandi tilfellum gjörandi Overlast, af hans sýslu innbyggendum; og þar þad er fullkomlega bevísad, ad Sýslumadurinn hefir verid Agressor og byrjad ófrid og óróa í Kaupmannsins húsi, án allra af honum gefinna orsaka, svo fullbevísad er hitt, ad hann er gripinn í þeim misþyrmíngum, liggjandi ofaná Kaupmanninum, med knéd fyrir hans brjósti, hvorjum hann vildi og naudugur sleppa undan sér, sem audsjáanlega hafa verid orsök til Kaupmanns Ryhns vanmáttar ad géta komist sjálfur í sæng sína, í hvorja hann mátti berast, sem og til hans miklu blóds-spýtíngar, er strax eptirfylgdi og um er vitnad; því dæmist rétt:

Sýslumadur J. Helgason, sem á opinberum höndlunar-stad, hefir svo blygdunar- semi dæma-laust hegdad sér, skal betala sínar Volds Böder, edur þrenn 40 lód sylfurs, til deilíngar millum Hans konúngl. Hátignar og Kaupmañs A. Ryhns, eptir lögunum, svo skal hann og eptir Extra-Lögþíngis dóminum í þessu máli, betala 46 rdlr.

 til

til Kaupmannsins í Próceſs koſtnad; ſvo vel ſem 20 rdli. í Próceſs umkoſtnad til þeſſa Yfir-réttar, ſem ölln ſé ſvarad til vidkomenda innann næſtkomandi Michaelis meſſu, undir adför og Execútión.

*Actum ut ſupra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsſon. | V. Schéving. |
| J. Arnórsſon. | G. Ketilsſon. |
| M. Giſlaſon. | S. Sigurdsſon. |

Ad þeſſi Yfir-réttar Acta ſeu rett át ſkriſud af Yfir-réttar Prótócollnum, fyrir þeſſi framanſkriſudu 5 ár, og hönum ſamhljóda, vitnar

B. Stephenſen.